# FORMÁLI,

sem dr. Hannes byskup skrifaði 1794,
þegar hann gaf út

# KVÖLDVÖKURNAR,

og endurbætti fyrri partinn, seinasta árið sem hann lifði; hinn partinn sá hann ekki. Formálann leiðrjetti hann, og verður hann hjer prentaður, eins og kominn er frá hans hendi.

---



KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐUR HJÁ LOUIS KLEIN.

1853.

Margir íslenzkir almúgamenn hjer á Íslandi (þeir eru ekki allir svo heimskir sem þeir sýnast), hafa saknað formála þess, sem Hannes byskup skrifaði fyrir bókinni, er hann ljet prenta 1794, og heitir Kvöldvökur. Jeg fyrir mitt leyti lái þeim það ekki; en skammast mín fyrir, að jeg er ekki slíkur prestur, sem hann lætur tala í þessari bók, því svo ættu þeir allir að vera; en guð heyrir ekki allt sem hann er beðinn um; hann veit sitt ráð. — það er langt frá, að jeg lái löndum mínum, að þeir sakna þessa formála, sem jafnframt lýsir tilgangi bókarinnar, viti og elskulegri guðrækni höfundarins; að minnsta kosti sjá allir af þessum formála, að honum datt ekki í hug, að hann hefði vizkulykilinn í vasa sínum, sem kanske einhverjum detti í hug, sem aldrei ná þángað tánum, sem hann hafði hælana.

þessi litla ritgjörð verður líklegast fáanleg í Reykjavík á næstkomandi lestum og kanske gefins fyrir þá, sem vilja eiga hana og áður eiga þær Kvöldvökurnar, sem prentaðar eru í Reykjavík 1848.

Á. Helgason.

Til

# LESENDA OG HEYRENDA

## Bókarinnar.

Vel veit jeg heilræði Seneku hins spaka, er ræður hverjum og einum, að gjöra tilraun um, sem færsta hluti, því þeir hljóti á flestu að flaska, sem flest leggi á gjörva hönd. Móti því hefi jeg samt brotið, einkum með að taka mjer fyrir hendur að semja bæklíng þenna; mjer er því öll þörf á, til afsökunar, að greina hvað mig hafi þar til dregið.

Þó sjálfselskan sje öllum mönnum eiginleg, þá er hennar ekki sízt hjá oss bókasmiðunum að vænta. Flestir hugsum við, að skemmtan, fróðleikur og uppbyggíng sje í hverju helst því, sem rennur fram úr penna okkar, og við ætlumst til að prentað verði; en allfærstir munu vera sjer meðvitandi um, eður ásetja sjer, að selja lesendum sínum einberan reyk, eða pretta þá. Vænti því enginn, að jeg afneiti svo sjálfum mjer, að játa Kvöldvökurnar sjeu til einkis gagns; þeim stundum sje illa varið, sem jeg brúkað hefi til að taka þær saman, og aðrir til að lesa eður heyra þær. En þó einhver segði, þær hafi mjög svo mistekizt, mörgum sjeu þær ofháar og óskiljanlegar, mörgum aptur of lágar

og of auðvirðilegar, þá er mjer það engin nýjúng, jeg geng vakandi að heyra þann úrskurð. Einúngis bið jeg þá, sem leggja þetta bæklíngnum til lýta, að umbæta það með því, að gefa út aðrar fróðleiks- og skemmtunarbækur, sem fríar sjeu frá þeim annmarka. Við hina, sem segja, að allar slíkar sidbótabækur sjeu til einkis, náttúran verði eins vond eptir sem áður, það sje viðlíka og þá Zerxes kóngur barði vindinn, eða lagði fjötur á árstrauminn, veröldin batni ekki við slíkar bækur og fl., er jeg eigi svo eptirlátsamur: Að sönnu verður góðra bóka verkun ei sjáanleg, eða að neinn geti bent til, og sýnt þetta eða hitt gott sje þeirri bók að þakka; en, fylgir þar af, að þá komi hún engu góðu til leiðar? Sólskinið á vordag dregur úr frostið, þíðir jarðarskánina, en þarf lángan tíma til að koma frjófgun í ræturnar, og þó enn leingri til að framleiða æskilega ávexti. Er vorsólskinið samt til einkis gagns? skugginn minnkar dag hvern smámsaman frá sólaruppkomu til hádegis, samt sjest ekki skil á, hvað mikið honum miðar, eða um hvað mikið hann minnkar á hverju augabragði. Hverr einn dropi hjálpar til að auka það frjófgandi regn á sumardag, sem endurlífgar grasið, þó ei sjáum vjer eða getum reiknað hvaða verkun hverr einstakur dropi hafi. Allt eins hefi jeg aldrei ætlast til, að bæklíngur þessi geti haft þekkjanlegan ávöxt, á ei heldur annars von, enn margir lestir og brestir viðvari, og aðrir að líkindum viðbætist, samt vænti jeg, að jeg ei hafi unnið aldeilis fyrir gýg. Með þessum fáu dropum endurnærist einhverstaðar gott frækorn, einhverjum verður af fáum örkum þessum meinlaus dægrastytting, og þó heyrn eða

lestur þeirra ekki ávinni í fyrsta sinni meir enn dropi, sem dettur á stein, þá kann samt eptir á að koma það gæfusamlegt augabragð, að hið lesna eður heyrða orð rifjist upp aptur fyrir einhverjum lesanda eður heyranda, og þá verði það honum uppörfun til nokkurs góðs, svo jeg enn þá lifi í góðri von, að minn tilgángur ekki detti aldeilis botnlaus niður, sá, undir eins að skemmta og betra einhvern. Annan tilgáng hafði jeg með fram; jeg hefi lengi verið í skuld*) um slíkan bæklíng, og

---

*) Með stærsta yndi minnist jeg ætíð á æru og lukku þá, er jeg í meir enn fjögur ár samfelld naut í Kaupmannahöfn, tvo klukkutíma í einu, fjóra daga í viku hverri, að hafa samtal, einvirðuglega umgeingni við þann góða ódauðlega Geheimeráð, Riddara og fyrsta Deputeraðann í hinu Danska Cancellie, Bolla Vilhjálm Luxdorph. Til að gjöra grein á, hvernig ofannefnd skuld er undir komin, en einkum til at gefa sýnishorn af hversu alúðlega sá mikli maður, uppörfaði únglínga, vil jeg hjer setja það, er jeg strax, sem jeg kom frá honum heim til mín, uppskrifaði í minnisbók mína úr samtali hans við mig 14. dag febr. 1777. „Haf, (sagði hann) reglu í hverjum hlut. Tak þjer vissan tíma til að lesa, til að skrifa, en sjer í lagi til að erfiða. Gleym ei líkamans vinnu, og lát hana vera þjer í staðinn fyrir miðdagsdúr. Þó þig lángi til að lesa eða skrifa, meðan þessi líkamans erfiðistími yfirstendur, þá láttu það á móti þjer, að forsóma hann eigi, þess vakrari verður þú á eptir til að gjöra það, sem þig lángaði til, og þú fekkst ei strax að gjöra. Sálin herðist og skerpist á að mæta hindrunum, og að stríða á móti þeim; það er í vissan máta hennar næring, og það tekur af henni ryðið. Legg þig aldrei til svefns, nema mót nóttunni, og þreyttur; sá svefn, þó stuttur sje, endurnærir meir en lángur dofahöfgi; skrifaðu, og láttu prenta marga, en smáa bæklínga, hvern á tvo skildínga eða einn; af náttúruspeki, eða siðgæði (*Physiqve og Moral*), en allt sje það slíkt, sem kynni að leiða til eptirþánka, sem kveikir upp lestrargirnd, og verður sem lítið frækorn; þó það fúni, þó það í fyrstu láti ei ávexti bera, það rótar sig einhversstaðar, eða að minnsta kosti fyllir það

nú verð jeg feginn góðu tækifæri, að sýna lit á, að borga nokkuð lítið af henni, þar hið góða og lofsverða Islenzka Landsuppfræðíngar Fjelag vill nýta arkir þessar, meðan ei er annað hentugra og betra fyrir hendi að prenta.

það, sem mjer hefir veitt torveldast í þessu litla verki, var að útvelja hvað mátulega hátt eða lágt, auðvelt eða þúngskilið, jeg mætti bjóða lesendum mínum. Aldrei kom mjer til hugar, að skrifa handa hinum lærðu meðal landa minna, þeir þurfa þess ei við; jeg sá ei heldur mjer fært, að samantaka neitt handa þeim allra einföldustu, heldur hafði jeg einkum auga á skýru almúgafólki, sem er mest megnis fjöldi lesenda minna. þeinki því einginn, að allt hvað finnst í Kvöldvökunum sje af mjer álitið fyrir hið bezta, og jeg haldi það eptir minni tilfinníngu ypparlegt. Nei! margsinnis

---

strástæði, hvar annars yxi eitthvert illgresi. Kenndu fólkinu að þekkja biblíuna; ekki þarf þar til lángar útleggíngar (*Commentarios*), ekki tjáir heldur að vilja útleggja því allt, sem útlagt verður, heldur á að leiða það á beinari lestrarveg, að sýna því til d., hvað Guðs stjórnan yfir Gyðíngum (*Theocratia*) hafi verið, hvernig Guðs ráðstöfun hafi leitt Gyðíngafólkið, án þess að þrástaga fyrir því lögmalið, þar Gyðíngar höfðu skilníng og minni, sem þeir áttu sjálfir að brúka, hvað þeir þó ekki gjörðu. þeir spurðu t. d. Hverr skal gánga upp, og vera vor fyrirliði? en spurðu samt ei áður: eigum vjer að fara upp? Skrifa daglega í þitt almanak, allt hvað viðber, það eptirtektaverðasta sem þú les, og það, sem þú af sálarinnar þekkíngu hja almúga og hverjum sem þú att orðastað við, kannt að uppgötva og aðgæta. Eg skrifa, sagði hann, allt þvílíkt daglega, og þegar jeg á daginn geing frá Cancellienu, er jeg að einsetja mjer, og hugsa um, hvað jeg ei vilji láta hjáliða að uppteikna þann dag.“ Æ! þessa mína stóru, að mestu enn þá ógoldnu skuld.

sleppta jeg bestu meistaraverkum, sem jeg hafði lyst til að lesa og útleggja; margsinnis því, sem ei gat vel skilizt af þeim, sem ei hafa út af landsteinunum farið, ellegar eru óvanir þeim fróðleik og bókum, er gefa ljós um grundvöll eða atvik bæklíngsins, sem klæðast átti í íslenzkan fatnað; og margsinnis því, sem bæði var snoturt, skarpviturlegt og almenníngi ei þúngskilið, en jeg valdi í þess stað heldur annað lakar samið, sem var hentugra til siðbóta. Hefði jeg valið efni og stýl einasta eptir sjálfs míns lund, þá hefði jeg ei verið ólíkur þeim skraddara eður skósmið, sem laga vildi öll föt eptir sjálfs síns vexti, en ei þeirra, sem áttu að brúka þau. Samt má jeg viðurkenna, að varla mun það land vera til, hvar almúgi er eins meðtækilegur fyrir svo megnan lærdómsmat, eða svo gjarn á nám og fróðleik, sem hjer á Íslandi og hafi jeg með Kvöldvökum þessum rjett hitt á gáníng landa minna, hvar um raun mun síðar vitni bera, þori jeg aptur á mót að segja, að bændalýð í öðrum löndum væri því nær allur partur þeirra of þúngur. Þessu til sönnunar, er mín eigin reynsla ekki nóg, því lítið dreg jeg af því, þó jeg svo sem ferðamaður í Danmörk og Svíaríki á einstöku stað hafi orðið nokkrar vankunnáttu var, eða hafi hjer á Íslandi margan vel skýran almúgamann hitt og þekkt, en meira met jeg það, að þar eð á eyju þessari ei eru alls 6000 húsfeður, og meðal þeirra ein frek 200 embættismanna, fundust samt þá fyrrnefnt Íslenzka Landsuppfræðíngar Fjelag var nýstiptað fullt 1000 menn, sem gáfu hverr fyrir sig hálfan eður heilan ríkisdal, og nokkrir fleiri, fyrirfram til

að fá andvirðið aptur í bókum. Nokkrar sýslur hjer í landi eru til, í hverjum færri enn fimmtúngur alls fólksins eru ólæsir (sumstaðar er það að eins sjöttúngur); er sá fimmtúngur eða sjöttúngur einúngis úngbörn og fáein gamalmenni. þar á mót vil jeg taka þá þjóð, sem haft hefir orð fyrir, að vera annara ljós, Franska; hjá þeim fannst fyrir 20 árum (og hefir uppfræðíngunni hjá þeim síðan ekki framfarið) í mörgu heilu þorpi engin læs manneskja, og jafnvel margir tollheimtumenn voru þar þá ólæsir*). Lángt veri frá mjer, að jeg vilji bera ósatt hól á alþýðu vora, það væri til að skemma hana, og mjer vanvirða, en sannindi á hún að njóta Láti lesendur mínir mig ei yðrast þeirra, en það gjöri jeg þó, ef nokkurr skyldi af hjer tjeðu leiða sjer í hug, að Islendingar sjeu fullfróðir, nóg sje fyrir þá, ef þeir standi hjeðan af í stað; heldur ætti þetta miklu fremur að uppörfa þá til enn meiri framfara Nóg er eptir samt, sem hreinsast og betrast þarf; nóg af hjátrú og myrkfælni, drauga- og galdra-hræðslu; nóg af þrái og þverúð; nóg af atorkuleysi, óþrifnaði, forsjónarbresti, rustahætti, eyðslusemi, og hefi jeg þó enn ei nefnt neitt það, sem kallast kann stór vankunnátta eða lestir; en um þetta og annað á bóklestur að upplýsa fólk, því aldrei hefir verið eða verður sú þjóð til, sem ei þarf nýrra og nýrra lærdóma við, ætíð er ofnóg af einu eður öðru illgresi, aldrei ofmikið af nytsamlegum jurtum og ávöxtum. Svo þó landar mínir eigi það hrós, sem jeg sagt hefi,

---

*) Bemerkungen eines Reisenden. Altenburg 1776.

þá má samt ei þar af dragast, að hjer sje eingra ábóta vant, eða óþarfi sje að brýna fyrir þeim siðgæðis-reglur, og bjóða þeim fróðleiksbækur. þeir þekkja best skort sinn, sem hafa hann minnstan, eru líka fúsastir á að bæta sjer hann. En máske einhverr segi: það er eigi nóg að vita hvað nauðsynlegt er til að fræða almúga með, heldur þarf sá, sem tekur sjer það fyrir höndur, að vita hvað lángt upplýsíngin í því landi er komin, hvað lesendum hans sje mest umhugað um, hvaða rángar innbirlíngar þeir hafi, hvernig þær megi nýta, eður hægast uppræta, og hvernig landsvani, lög, bjargræðismeðöl, kauphöndlan og fleira hafa lagað lunderni fólksins, svo uppfræðarinn eptir þessu viti í hvaða horf á að stefna. Allt þetta játa jeg satt að vera, og þekki þess vegna þá kostgæfni, varúð, stillíngu og greind, sem slíkur uppfræðari þarf að brúka, en mínar Kvöldvökur ætla ei að taka sjer nærri svo mikið í fáng, þær láta sjer nægja (svo jeg brúki áður tjeða samlíkíngu), að bráka eitt eða annað ógresi, og hreyta út aptur einstaka góðu frækorni.

Stýllinn vilda jeg reyndist viðhafnarlaus, óflókinn og altjelegur; en hreinn, auðveldur og þægilegur. Jeg vona hann ei virðist lesendum að lakari fyrir það, því bæði hafa mjer lærðari menn haldið, að auðskilinn stýli sje ekkert vankunnáttumerki*), og líka að sitt sje hvað óbreyttur og auðvirðilegur

---

*) Plerumqve accidit ut faciliora sint ad intelligendum & lucidiora multo, qvæ a doctissimo ;voqve dicuntur. Qvintillianus Instit. Orat. Libr. 2 Cap. 3.

stýll *) Gömul úrelt orð og framandi túngna ósmekkskeim í orðum og talsháttum hefi jeg haft ásetníng jafnt að forðast, en samt ei viljað kasta stýlsins sómasemi þar fyrir burt; dæmi aðrir um hvernig mjer hafi það tekizt, og sjái í gegnum fíngur við það, sem á brestur, eins og við aðra óviljasynd.

Suma vökulestra hefi jeg sjálfur samantekið, en útlagt aðra, þó er því nær ekkert, sem jeg ei hafi lagað eptir minna lesenda þekkíngu, og, hvar þess hefir verið kostur, eptir landsins ásigkomulagi, svo jeg get ekkert tekið í fullt forsvar, ef það ætti, sem einber útleggíng að dæmast. þess vandara er mjer, sem jeg ekki get fyrir mig borið, að jeg hafi sett mjer þá reglu, að fylgja neinu aðalriti.

Ekkert hefi jeg svo mikið vandað af blöðum þessum, sem þau er viðvíkja guðfræðinni, og þau máske þó þurfi mesta línkind af lesaranum, jafnvel þó jeg í þeim hafi einkum haldið beinni stefnu eptir biblíunni En ef lesarinn finnur allt annað orðatiltæki í sinni biblíu? það kemur mjer ei óvart. Fyrirgefníngar vænti jeg samt, þó ei skrifi jeg, að Guð hafi í Israelítunum gengið, 2. Cor. 6, 16., þeir eta mitt hold, Psálm. 27, 2., blóðið er sálin, þar fyrir skaltu ei eta sálina með kjötinu, 5. Mós. b. 12, 23., band algjörlegleikans, Coloss 3, 14., þeim hinum innsta kór musterisins kasta þú út, Opin. b. 11, 2. Leirgjörarans ker, s. b. 2, 27. Júðisku mál, 2 Kóng. b. 18, 26. Matier, Job. 38, 5. að skoða

---

*) le Stile le moins noble a pourtant sa noblesse. Boileau.

einum eitthvað, Esa. 30, 10. og ótal fleira. Jeg á mjer vísa von, að verða fyrir straungum áfellisdómi fyrir sýnishorn það, sem jeg af biblíu-útleggíngu hjer framsett hefi, þar jeg hafi svo lángt frá orðunum farið; en að von minni mun hann mildast þegar aðgætt verður: 1) Eingin er sú útleggíng til, getur verið, eða á að vera, sem ei gángi nokkuð frá orðunum. 2) Dr Lúthers útleggíng og okkar Biskups Þorláks Skúlasonar biblía gjöra það allvíða, þær bæta orðum sumstaðar inn í og sleppa þeim aptur annarstaðar. Sumstaðar setja þær allt annað orð í staðinn þess, er þótt hefir of hart að orði kveðið*), t. d. Svo að jörðin klofnaði af hljóðum þeirra, 1. Kóng b. 1, 40, hvar þeir hafa rjettilega útlagt: svo jörðin skalf af þeirra háreysti. 3) Allvíða sýnist vera rjett útlagt, en er samt ekki, því vjer skiljum í voru túngumáli annað með vidlíku orði enn Hebreskir meintu: t. d. friður rjettlátur og fl. Þannig sýnast orðin: Guð þekkir veg hins rjettláta, Psálm 1, 6. og yðar hjörtu skulu lifa að eilífu, Psálm 22, 27. að vera í hreinni og góðri Islenzku, þó eru í hverju þessara versa fyrir sig þrjú orð, af hverjum ekkert á þar heima í Islenzkri, heldur hebreskri meiníngu, því á Islenzku þýða þær greinir: Guð hefir velþóknan á athæfi hins ráðvanda, og, yður mun allt af vel vegna. 4) Ef biblían ætti orð fyrir orð að útleggjast, þá skildi hana enginn ólærður maður, og sú

---

*) Þannig segir Juvenalis: frangere subsellia versu, að lesa svo hátt versin sín fyrir tilheyrendunum að bekkirnir ætli að brotna.

útleggíng yrði að aðhlátri. t. d. Nefið af erfð minni, Psálm. 16, 6. Naflinn af jörðinni, Ezech. 38, 12. Brauðsstafur allvíða og fl., því hvert eitt túngumál hefir sína talshætti og orðatiltæki fyrir sig, sem yrðu í öðru óskiljanlegir t. d. saliva virgo: Mercurius supervenit; oculis haurire; panem ne frangito og plura ejusdem farinæ*), hvernig mundi það orð fyrir orð verða í Islenzkunni? eins og nemo mortalium er rjett útlagt, eingin manneskja, því má þá eigi eins að orði kveða þar, sem biblían segir: ekkert hold? þess vegna eru orðin: hann gaf höndum sínum skilníng 1 Mós. b. 48, 14. rjett útlögð: hann hagaði svo viljandi höndum sínum, eins og Lúthers og Biskups þorláks útleggíngar hafa það. Hverr hneixlast á borðsálmi vorum. þakkið þjer Drottni, þó að bæði í Hebresku, Grísku og Látínu sje orðið: viðurkennið þjer Drottni? 5) þeir sem útleggja eina eða aðra biblíubók, eða alla biblíuna, kunna að hafa ýmislegan tilgáng: einn gjörir útleggíngu handa viðvæníngum til að geta borið hvert hennar orð saman við höfuðtextann, þar verður að tína upp eitt orð eptir annað; annar ber sig að sýna andargipt hinna heilögu skrifara, gjöra þeirra þánka eins lifandi með skáldskapargáfu í útleggíngunni, eins

---

*) Saliva virgo, hráki sem er píka ɔ: fastandi manns hráki.
Mercurius supervenit, öllum sló í dunalogn; allir þögnuðu fyrir sljett. Mercurio enim præsente non fas erat loqvi.
Oculis haurire, að ausa upp með augunum ɔ: sjá.
Panem ne frangito, brjóttu ekki brauðið; ɔ: brjóttu ei vináttu. því Pythagoras brúkaði brauð svo sem symbolum upp á vináttu.
Ejusdem farinæ, af sama mjöli; ɔ: þess slags.

og þeir vóru í aðalritinu, þar verður að umklæða hvern einn þánka, sníða hann eptir því formi, sem útleggjarans túngumál útkrefur, og gjöra allt eins snoturt og hnyttilegt eins og það finnst í höfuðtextanum; þriðji ætlar sjer að gánga meðalveginn, láta allt vera auðskilið handa einföldum og ólærðum, en þó hreina útleggíngu. Allir sjá, að ef hverjum þessara tekst verk sitt vel, verður ærinn mismunur á útleggíngunum, en meiníngin á að vera og verður í öllum hin sama. Minn tilgángur með útleggíngar sýnishornið yfir Sendibrjefið til Galata var, að gjöra auðskilda útleggíngu handa almúga, er lesast kynni í heimahúsum, og þess vegna bar jeg mig að brúka allstaðar eiginleg orð, eptir sem þau í Íslandi tíðkast. Meira enn fyrir tilraun bið jeg enginn taki það, og ekki er heldur þánki minn, að biblíu-útleggíng til opinberrar guðsþjónustu, eða handa lærðum lagist eptir því formi, heldur bið jeg mín tilreynsla dæmist, leiðrjettist og betrist í tilliti til þeirrar einnar brúkunar, sem hún er ætluð. Hið sama sem nú er tjáð um útleggínguna á þessu sendibrjefi, bið jeg lesandinn heimfæri úppá útskíríngu mína yfir orðið Trú. Hvorttveggja á sammerkt í því, að í þeim hefi jeg ei neinu riti einkum fylgt, sem mjer um það hefir fyrir augu borið, og ekkert skrif sjerílagi um trúna hafði jeg við hönd, eða valdi mjer til leiðarvísis, heldur tók þann mæðusamari veg, að rekja sjálfur allt frá rótum.

Gáturnar og snilliyrðin, líka nokkrir af sundurlausu þaunkunum eru ætluð til að æfa skarpleika hjá únglíngum og vekja eptirþánka.

Þegar jeg hefi lesið einhverjum dæmisögu, hefi eg optar enn einusinni verið að spurður, hvort þetta

hafi skeð, hvort það sje satt eða ekki? svo kynnu máske lesendur mínir efast um sannleika einnar eður annarar sögu, sem hjer fram kemur. Jeg svara einasta þar til, að ef sögurnar skemmta og kenna eitthvað þarft, þa ríður ei á að vita, hvert allt hafi svo í raun og rjettri veru tilfallið eins og það stendur í bókinni. Jeg geing því ei í borgun fyrir, að hrafn og tóa hafi talað saman, völvurnar hafi gjört kraptaverk, Erlendur hafi verið svikinn um skiprúm, og margt fleira; þegar jeg frátek að Prestur er sá sem talar, og að sögurnar af Menzíkof og um drauginn No. 17 eru sannar, læt jeg mjer hægt um, að taka hinar í forsvar.

Jeg hefi opt kvalist af að vita, að á mörgum bæjum eru lesnar tröllasögur og æfintýri full af ósiðum og hjátrú; vorkenni samt skörpum únglíngum, sem einga betri andarfæðu hafa getað feingið; því ekki er jeg svo ónærgætinn, að jeg heimti af nokkrum að lesa sífelldlega guðfræðisbækur sjer til gagns. Þvert á móti veit jeg eingann beinari veg, að gjöra únglíngum guðlegan lærdóm væmisaman og leiðan, enn að neyða þá til að hafa hann um hönd sí og æ, einkum yfir háls og höfuð undirbúníngs- og skilníngslaust, þegar illa liggur á þeim, eða sinnið er fullt af eptirlángan annara hluta. Dæmin eru nóg, sem sýna að slík meðferð á Guðs góðu orði hefir verið skaðleg. Greifinn Strúense var í úngdæmi sínu látinn sífellt sitja við biblíulestur, og var rekinn með harðri henði til hans, hvernig sem sinni hans var undirbúið, og Preussa kóngur Friðrich hinn annar var í uppvextinum vanur að fá það straff fyrir ávirðíngar sínar, að hann skyldi lesa nokkra kapítula í biblí-

unni; báðir þeir urðu, eins og von var til, mestu biblíunnar hatarar. Mín meiníng er ei hjermeð, að aldrei skuli börnum vera haldið til að læra og lesa Guðs orð, eða þau skuli ráða því sjálf, nær, eða hvert þau vilji á því taka. Jeg þekki börn svo vel, að jeg veit þá yrði lítið úr lærdómi þeirra, held líka svo mikið upp á barnaagann, að jeg ekki vil mæla því bót, að líða úngdóminum sjálfræði, þrá eða óhlýðni í þessu nje öðru; en samt vil jeg vel sje lagt niður fyrir barninu, að vegna óhlýðninnar, og hennar einnar, sje það þá straffað, en barnið ei ert upp til þverúðar með oflaungum lestri í hvert sinn. Það er að skilja. Jeg vil ei láta Guðs orða lestur vera þeim straff, eða svo lángan í einu, að hann olli þeim leiðinda, ei heldur mega þau rekast til hans aldeilis varbúin, heldur lokkast og yfirtalast til hans, og han gjörast svo þægilegur, sem mögulegt er, svo þau lángi til hans. En þar þessa er varla að vænta, meðan þau ei eru búin að fá skynbragð á honum, þá er mitt ráð, að kenna börnum ei hinn fyrsta bóklestur á guðfræðisbækur, heldur smásögur, auðskilin heilræði og þvílíkt t. d. S u m a r g j ö f  h a n d a  b ö r n u m, sem er yfrið góð og þægileg bók til barnauppfræðíngar. Þegar börn eru búin með hana, þá kynnu sumar frásagnir og dæmisögur úr K v ö l d v ö k u m þessum vera betri til æfíngar í lestri, enn ein og önnur ósiðsamleg æfintýri, riddara- og tröllasögur, um hnútuköst og knífilyrði jötna, með öðrum sómalitlum eða aldeilis ótrúlegum athöfnum þeirra.

Öllum góðum mönnum má vera gleði, að dans og vikivakar, eins og þeir seinast voru orðnir hjá oss, eru aflagðir, því ef hin fyrr tjeðu æfintýri eru

óheilnæm andarfæða, þá voru þeirra vikivaka skrýpalæti siðgæðisins ólifjan og bráðasta eitur. En mjög svo vantar oss Íslendínga eitthvað það, er gleðji og hressi sál og líkama undir eins t. d. sómasamlegan dans, hljóðfærasaung, og gagnsamleg samkvæmi. Svo sem eitt hið minnsta og skiljanlegasta sýnishorn af útlendra þjóða gleði, hefi jeg vogað að bjóða lesendum mínum tvær barnagleðir; en vegna þeirra, sem aldrei hafa slíkt sjeð eða lesið, vil jeg því einu viðbæta, að slíkum gleðileikum, nema örstuttir sjeu, er skipt í flokka (Actus), hverjir sjaldan eru fleiri enn fimm. Hverjum flokki er aptur skipt í atriði (Scena), byrjast ætíð nýtt atriði við það, að einhverr þeirra, sem gleði eður sorgarspilið leika, kemur fram á skoðunarplátsið, ellegar fer burt af því. Þar sem þetta teikn — eður - - - stendur, merkir það nokkra þögn eða viðstöðu í framburðinum, ellegar að hinn talar fram í, og hindrar þann er áður var að tala, frá að geta fullendað það, sem sá vildi hafa framfært. Ekki er vel lesið nema rödd lesandans hefjist, lækki og lempist eptir hverju því efni, sem þá er fyrir hendi, og raustin segi til allra umbreytínga, er verða á þaunkum þess, í hvers orðastað lesandinn talar. En allra mest ríður á þessu þegar gleði er lesin, hvers vegna jeg með fram hefi innfært fyrr áminnstar tvær gleðir í Kvöldvökurnar, til að fá þar með vel læsum og skörpum únglíngum í hendur það, sem þeir geti æft sig á, að fullkomnast í úttali, og náttúrlegum seimlausum lestri.

Á eingri einni öld hefir náttúruspekinni meir framfarið, enn á þessari nærverandi, og aldrei hefir hennar þekkíng útbreiðzt meir til allra landa manna

á milli. Menn hafa ákvarðað halastjörnunum lög, nær þær skuli aptur til vor hverfa; smíðað betri kíkira enn Newton sjálfur gat skilið, að mögulegir væru; fundið nýja plánetu, sem er meir enn þúsund sinnum stærri enn vor jörð, og í hverri eitt ár er meir enn áttatýgi af vorum árum; þekkt að sólin sjálf er pláneta; fundið hina fimmtu álfu heimsins; komizt að rjettum skapnaði jarðarinnar; smíðað reiðarslög í flösku; leitt lopteldana hvert sem menn vilja, eða gjört þá að eingu; fundið dýr, sem vaxa eins og gras, og deyja ei þó sundur sjeu skorin, en grös, sem hafa tilfinníngu eins og dýr; fiska, sem með reiðarslögum niðri í vatninu drepa aðra fiska; neytt plönturnar til að taka fram hjá; úngað út eggjum fuglalaust og hitalaust; snúið segulsteinsáttunum á einu augabragði; brætt gler í vatni, og stál, svo það flýtur eins og smjör; fundið þýngra málm enn gull er; smíðað sínk og kvikasilfur; skotið með vatni og lopti, eins og væri það bissupúður; talið og tilbúið þrettán slags lopt, sem forfeður vorir vissu ekki nema af einni þess tegund; umbreytt föstum hlutum í lopt, og lopti í fasta hluti; fundið mörg þúsund af nýjum áður ókenndum dýrum og plöntum, sem hvert fyrir sig hefir sitt eigið aðdáanlega eðlisfar, og loksins fóru menn fyrir 12 árum að sigla uppi í loptinu.*) Í svo mikilli

---

*) Leingra var ekki náttúrufræðin komin 1791, því Hannes byskup var ekki, sem kallað er, á eptir í tíðinni, þar um bera vitni þær ritgjörðir, sem viðvíkjandi henni finnast í þessari bók, Kvöldvökunum. En mart er samt fundið síðan, og þó að undirskrifaður viti minnst af því, ætlar hann þetta merkilegast: að með gufukrapti fara menn nú á skipum ára- og segllausum, móti stormi um reginhöf, fara í flughasti lángar leiðir með

vísindanna birtu, er dauflegt að hafa að eins litla skímu, hefi jeg því til lítillar umskiptíngar tekið mjer, optast nær einusinni í viku, talsefni af fáeinu úr náttúruþekkíngunni. Sumt af því uggir mig jeg ei hafi getað framfært svo skiljanlega, sem jeg vildi æskja, þó ei hafi viljann hjá mjer til þess vantað. Öll slík þekkíng er samt að vísu harla nytsamleg, bæði til að fá skynbragð á því, sem oss er skaðlegt eður nytsamlegt, og líka til að þekkja af skepnunum skaparans almætti, gæðsku og speki. Jeg vil ei fjölyrða þar um, nema að lokum bæta hjer við heiðins manns Epictets orðum: „Ef manneskjan hefði,“ segir hann, „nokkra sóma og þakklætis tilfinníngu, þá ætti allt hvað hún sjer í veröldinni sífelldlega að uppörfa hana til þakklætis og lofgjörðar. Grasið á jörðunni, sem gefur málnytunni mjólk til að fæða manneskjuna á; sauðfjárins ull, sem þjenar henni til klæðnaðar, ættu að vekja hjá henni forundran; þegar hún sjer, að plógjárnið sker í sundur moldarkekkjana, og gjörir lángar rákir, til að búa vel um fræsins legurúm, ætti hún að kalla og hrópa upp yfir sig: hversu dýrðlegur er Guð! hversu gæðskuríkur! að hann hefur veitt okkur öll verkfæri, sem þarf til akuryrkjunnar.

---

þúngar kerrur með þúngum vörum, sem einginn nema gufa rekur áfram, einginn hestur dregur; ferðast í gufuvögnum með svo miklum hraða, að þeir sem á vögnunum sitja sjá ekkert sem í kring um þá er, nema í þoku, á járnbrautum, er menn nú nýlega eru farnir að gjöra víða; og seinast er farið að hitta upp á ráð til, að kunníngjar vorir í Paris og Lundúnum geti fært okkur híngað frjettir, sem þar gjörast, með tólum, sem jeg ekki þekki, á stuttum tíma; þessi tól eru nefnd frjettafleygir.

Á. H.

þegar hún sezt niður að borða, ætti allt að minna hana á Guð, og endurnýja hjá henni hans þekkíngu. Hann hefir, ætti hún að segja, gefið mjer höndurnar til halda með á matnum, tönnur til að bíta hann í sundur, og maga til að melta hann með mjer; og það, sem mest skuldbindur mig til að vegsama Guð, er að hann lætur mig þèkkja sig, sem gefur mjer allt þetta gott, og að jeg á að brúka það eptir hans vilja — hvað? þar eð aðrir eru í dauðadái og hugsa ekkert um Guðs forsjón, er þá ekki viðurkvæmilegt, að hinir hefjist upp úr hvers manns hljóðum, og byrji lofsaunginn? hvað get jeg svo veikur og gamall maður, sem jeg er, gjört annað enn vegsamað Guð með minni raust? jeg hefi skynsemi, því ber mjer að lofsýngja Guði. það er mitt embætti, mín vinna; jeg skal ekki hætta þeirri minni iðju, meðan lífsandi er í mjer.“

---

